VERKALÝÐSBLAÐIÐ.
málgagn EIK(m-l)
6.tbl.16.júní-12.júlí 1977.

AUKABLAÐ

///// Á árunum 1930 - 1936 var Verklýðsblaðið málsvari verkalýðs og vinnandi alþýðu í baráttunni gegn kaupráns og kreppuráðstöfunum atvinnurekendavalds og borgarastéttarinnar allrar. Sú sveit baráttusinna, sem byggði upp Verklýðsblaðið, sem öflugt baráttutæki - Kommúnistaflokkur Íslands - var lagður niður árið 1938. Frá þessum tímum hefur verkalýður og vinnandi alþýða ekki átt sér öflugt kommúnískt verkalýðsblað.

///// Verkalýðsblaðið (nýja) hóf komu sína 1.maí 1975 og var þá fjölritað og heft saman. Verkalýðsblaðinu hefur síðan fleygt fram bæði að innihaldi og í útliti. Helsti galli Verkalýðsblaðsins nú er sá að blaðið kemur út of sjaldan. Úr því verður að bæta.

///// Frá 1.september í haust kemur Verkalýðsblaðið tvisvar í mánuði. Þetta stökk táknar tvennt:
a) aukinn styrk í stéttabaráttunni
b) aukinn kostnað og vinnu við gerð blaðsins

Hvort tveggja reynir á styrk EIK(m-l), stuðningsmanna og velunnara Verkalýðsblaðsins.

///// Fjárframlög fær Verkalýðsblaðið engin frá auðherrum og ríki. Allt fjármagn kemur frá lesendum og velunnurum blaðsins og þannig verður það að vera til þess að Verkalýðsblaðið geti þjónað verkalýð og vinnandi alþýðu í baráttunni. Við treystum á fjárframlög þín lesandi góður.

///// Til þess að tryggja örugga útgáfu má Verkalýðsblaðið ekki vera háð duttlungum og hagsmunum prentsmiðjueigenda og fjármálamanna. Verkalýðsblaðið verður að eiga inni í eigin prentsmiðju. Við höfum því lagt af stað í fjársöfnun til kaupa á prentsmiðju, sem prentað gæti Verkalýðsblaðið í því broti sem það er í nú. Auk þess er slík prentsmiðja svo afkastamikil að í henni mun vera hægt að prenta bækur og hefti OKTÓBER-forlagsins o.fl. Verkalýðsblaðið hefur sett sér markmið að safna ½milljón kr. fyrir áramót.

///// GREIÐIÐ FJÁRFRAMLÖG YKKAR Á GÍRÓ 12200-9

Skráið ykkur á lista hjá sölumönnum Verkalýðsblaðsins með fastar vikulegar eða mánaðarlegar greiðslur. Greiðslurnar verða síðan sóttar til ykkar reglulega.

TAKIÐ VIRKAN ÞÁTT Í EFLINGU VERKALÝÐSBLAÐSINS !

Ritstjórn Verkalýðsblaðsins
Laugavegi 178
Reykjavík

Pósthólf 5186 Reykjavík.

# FELLUM KJARASAMNINGANA!

Samningum er nú lokið í öllum aðalatriðum. Þetta hefur verið langt þóf og margar fagrar yfirlýsingar gefnar af "foringjunum". Miðstýring innan ASÍ hefur verið meiri nú en nokkru sinni og m.a. hún hefur orðið til þess að halda verkafólki almennt utan við samningsgerðina og baráttu. Árangurinn er því eins og til var stofnað: "það er hægt að reka þetta þjóðfélag með samningunum", sagði Guðmundur J., varaformaður Dagsbrúnar, hróðugur í viðtali. Hann gleðst heils hugar yfir því að gróða atvinnurekenda af vinnu verkafólks er borgið.

Mikilvægustu kröfur ASÍ-þingsins voru: a) 100 þús. kr. lágmarkslaun - nú 114-117 þús. vegna verðhækkana; b) full vísitölutrygging miðað við óskerta framfærsluvísitölu - mánaðarlegar bætur; c) samningar gildi frá 1. maí.

HVER ER ÞÁ ÁRANGURINN? Kauphækkunin nú er aðeins 18 þús. kr., sem er alls ófullnægjandi eins og þeir vita best sem þurfa að lifa á launum verkamanns - það þurfa ASÍ-foringjarnir vissulega ekki! 102 þús. kr. 1. sept. 1978 er ekki hið sama og 100 þús. í nóvember s.l. Því fer víðsfjarri að launakrafa ASÍ-þingsins hafi náðst fram og með samningunum er ísl. verkalýður jafn ofurseldur yfirvinnuþrælkun sér til framfæris og áður.

Í vísitölumálinu hefur ASÍ-forystan: a) fallist á skerðingu vísitölugrunnsons (launaliðir bóndans, tóbak og áfengi tekið út); b) sett til hliðar kröfur um mánaðarlegar bætur og tekið upp "verðbótaauka" - sannkölluð háloftaleikfimi hagfræðinganna! Þá er enn einn athyglisverður "árangur" samflotsins mikla í samningunum meðferðin á svonefndum sérkröfum. Skapast hefur sú hefð undanfarin ár að stinga þeim undir stól og afgreiða allar á einu bretti með ákveðinni vísitöluhækkun á kaup. Augljóst er því að sérkröfugerð er þýðingarlaus, taki verkafólk ekki sjálft í taumana og haldi samningsvaldinu hjá eigin félagi. Enn eitt atriði ber að skoða og það er, að samningstíminn gildir frá undirskriftadegi. Verkafólk hefur því unnið eftir gömlu samningunum í nær tvo mánuði!

## Orsakir ósigursins

Þegar metnar eru orsakir hinna slæmu kjarasamninga sem gerðir hafa verið, þá er að sjálfsögðu þyngst á metunum samflotsformið - miðstýring samninganna, sem í raun útilokar almenna þátttöku verkafólks í samningsgerðinni og afhendir "foringjunum" takmarkalítið vald. Skipulega er svo reynt að fylgja þessu eftir með því að ýta undir óvirkni almennings. Þegar "foringjar" eru inntir frétta af samningsfundum, þá er svarið gjarnan á þá leið, að "engar fréttir á þessu stigi málsins". Kjarasamningarnir eru því í þeirra augum trúnaðarmál þeirra og atvinnurekenda og embættismanna "Þjóðhagsstofnunar". Mikilvægt er einnig að skoða "baráttuaðferðir" þær sem ASÍ hefur beitt: yfirvinnubann, sem svelt hefur verkafólk og stuðlar þar með að því að menn sætti sig fremur við svikasamninga; starfsgreina- og landshlutaverkföll - "skyndiverkföll" (!) sem tilkynnt hafa verið með hálfs mánaðar fyrirvara og skipulögð með hagsmuni auðvaldsins í huga!

Við verðum því að skoða niðurstöðurnar í ljósi þess að kjarni ASÍ-forystunnar er ekki lengur hluti af verkalýðsstéttinni, heldur andstæðingnum - borgarastéttinni. Yfirlýst markmið þessa fólks er hið sama og atvinnurekenda og ríkisvaldsins: "að taka mið af stöðu þjóðarbúsins" þ.e. að bjarga gróðahlutfalli atvinnurekenda óskertu.

## Svar verkafólks

Öll sigursæl barátta gegn atvinnurekendum verður jafnframt að beinast gegn ASÍ-forystunni. Kjarabætur fást aðeins með harðri og miskunnarlausri baráttu. Nú er því sýnt að verkafólk verður að taka til sinna ráða. EIK(m-l) benda á eftir farandi leiðir: 1. FELLUM SVIKASAMNINGANA; 2. KJÓSUM EIGIN SAMNINGANEFNDIR Í FÉLÖGUM OKKAR; 3. SKIPULEGGJUM SKÆRUVERKFÖLL, SEM MIÐIST AÐ ÞVÍ AÐ LAMA MIKILVÆGUSTU FRAMLEIÐSLUNA ÁN FYRIRVARA! KOSNAR VERKFALLSNEFNDIR FÉLAGANNA SKIPULEGGI VERKFÖLLIN.

VÍKJUM ASÍ-FORYSTUNNI ÚR VEGI OKKAR OG BERJUMST FYRIR BETRI SAMNINGUM!